# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

16. ÁRG. WINNIPEG, NÓVEMBER 1901. NR. 9.

## Bœn um endrfœðing.

Frá ónefndum höfundi.

---

(Lag: Nú til hvíldar halla' eg mér.)

1. Allt, sem fyrir augun ber,
ógnar-daprt sýnist mér.
—Sama blessuð sólin skín,
en sjónin hefir deprazt mín.

2. Allt, sem eg að eyra sný,
í sér bindr sorgargný.
—Þó er himins hljóðfall *eitt*;*)
heyrnin er það, sem er breytt.

3. Í jurtagarða geng eg inn,
en góða ilminn hvergi finn.
—Eru blessuð blómin hætt—
blómin hætt—að anga sœtt?

4. Allt, sem eg nú et eða drekk,
einhvern'eginn vantar smekk.
Þó er, skapari, skammtr þinn
skemmdr ei, en smekkr minn.

5. Oft eg dett og meiði mig
á mínum grýtta æfistig.

---

*) = eitt og hið sama.—Höf.

En hvað mun valda? hver veit skil?
eg hættr er að finna til!

* * *

6. *þannig hefir sorg og synd*
*svift mig drottins helgri mynd.*
*— Góði faðir, græddu mig!*
*Guð minn, endrfæddu mig!*

---

## Trúarsamtals-fundir.

### Helganin.

Um miðjan Októbermánuð voru haldnir fundir til að ræða um kristileg trúmál í söfnuðunum öllum fjórum, sem tilheyra prestakalli séra Björns B. Jónssonar, í Minnesota. Einn fundr slíkr í hverjum söfnuði. Fyrsti fundrinn var haldinn í St. Páls kirkju í Minneota að kvöldi sunnudagsins 13. Okt. (19. e. trín.); og hinir fundirnir svo hvern daginn eftir annan í kirkjum Vestrheimssafnaðar, Lincoln-safnaðar og safnaðarins í Marshall,—tveir hinir fyrrnefndu um miðjan dag, hinn síðasti að kvöldi.—Umræðuefnið var hið sama á öllum fundunum: *helganin.*

þrír aðkomnir prestar voru hluttakendr í fundahöldum þessum: séra Friðrik J. Bergmann, séra N. Steingrímr þorláksson og ritstjóri „Sam." Og voru þeir samkvæmt beiðni séra Björns til skiftis málshefjendr á fundunum.—Á sunnudaginn prédikaði séra Steingrímr á tveim stöðum þar í prestakallinu: í Minneota að morgni og í Marshall síðdegis; og sama dag um hádegi séra Friðrik Bergmann í kirkju Lincolnsafnaðar, og séra Jón Bjarnason í kirkju Vestrheimssafnaðar. Að kvöldi mánudagsins fór og fram opinber guðsþjónusta í St. Páls kirkju í Minneota, og prédikaði hinn síðastnefndi prestr þá aftr.

Samtalsfundrinn í Minneota var vel fjölmennr, og var hluttaka leikmanna í umræðunum þar bæði mikil og góð. Vestrheimssöfnuðr og Lincoln-söfnuðr eru sveitasöfnuðir. Og dró að sumu leyti veðráttan, en að sumu leyti annríki bœnda úr aðsókninni að fundum þeim, sem þar voru haldnir. Söfnuðrinn í Marshall er fámennr; fólk hefir þar í seinni tíð fækk-

að fyrir burtflutning. Á fundinum þar var eins margt fólk og til stóð. Og allir fundirnir heppnuðust eftir ástœðum mjög vel. Því, sem talað var, virtist allsstaðar vera veitt hin mesta athygli. Og það skein út úr andlitum manna hjartanleg ánœgja með fundahöldin.

Með tilliti til efnahags, dugnaðar og menningar eru landar vorir í þeim byggðum meðal hinna allra fremstu í hópi Vestr-Íslendinga. En þeir eru áreiðanlega einnig á undan í kirkjulegu tilliti. Ekki svo að skilja, að allir sé þar innan kirkju eða trúarjátning vorri samþykkir. Þar vantar vitanlega allmikið á, þó að einnig í þeirri grein sé nú orðin veruleg breyting til hins betra frá því, er eitt sinn var. En áhuginn á framfaramálum kirkjunnar er jafn-meiri í þeim söfnuðum en flestum, ef ekki öllum, öðrum, er tilheyra kirkjufélagi voru. Og sérstaklega á söfnuðrinn í Minneota ágætt úrvalalið til þess að beita fyrir sig með prestinum í baráttu sinni og framkvæmdum guðs ríki til eflingar og útbreiðslu. Hinn kirkjulegi áhugi safnaða þessara hefir meðal annars sýnt sig í því, hve örlátlega þefr hafa lagt til missíónarsjóðs kirkjufélagsins í samanburði við aðra söfnuði þess, og hve vel þaðan hefir verið sótt ársþing kirkjufélagsins, þótt það vanalega hafi verið haldið svo fjarska langt burt frá byggð þeirra.

Trúmálið, sem rœtt var á fundunum í söfnuðum þessum, er skiljanlega afar víðtœkt og mikilsvarðanda. Orðið „helgan“ merkir hið sama sem lifandi kristin trú. Kristilegt trúarlíf frá hinni fyrstu litlu ósýnilegu byrjan þess allt til þess, er það hefir náð sínum mesta þroska, sinni mestu fylling. Þar er sannarlega margs að minnast. Meðal annars þess, að nú sérstaklega—aldrei eins áðr í sögu kristinnar kirkju—kemr sú krafa til vor allra, er nefnum oss lærisveina Jesú Krists, að vér sýnum þess skýr merki, að vér séum á vegi helgunarinnar, látum ljós vort skína í vandaðri, grandvarri, samvizkusamri, kærleiksríkri framkomu bæði til orða og verka. Heimrinn hefir aldrei áðr eins mjög heimtað þetta af kristnum mönnum. Sjáist ekki þessir ávextir spretta fram af trúnni á Jesúm Krist, verði það ekki algjörlega ljóst, að kristnir menn bera af öðru fólki með tilliti til hinnar daglegu breytni, þá er ekki við því

að búast, að heimrinn nú—á þessari skynsemdar-öld—kannist við það, að kristna trúin sé sannleikrinn. En sjái hann þessi merki, þá fer hann eðlilega að hugsa sig um, fer að bera lotning fyrir kristnum mönnum og þar með þá einnig smásaman, jafnvel áðr en hann veit af, fyrir trúnni þeirra, guðs orði, kristindóminum. Hinn heiðni heimr rómverska ríkisins beygði sig fyrir kristninni forðum fremr öllu öðru fyrir þá sök, að lífi kirkjulýðsins, lærisveina Jesú, stakk svo algjörlega í stúf við líf alls annars fólks. Menntamennirnir á þeirri tíð töldu það, sem þeir heyrðu af kristnum trúarlærdómum, heimsku og óvit; en er þeir litu hið hreina og heilaga líf fólksins, sem bar fyrir sig nafn frelsarans, þá undruðust þeir og leiddust svo nærri því ósjálfrátt æ fleirri og fleiri til þeirrar sannfœringar, að innihald kristinnar trúar hlyti að vera guðlegs uppruna, djúpr og órannsakanlegr leyndardómr að vísu, en þó hin eina alsanna lífsspeki, hinn guðlegi sannleikr sáluhjálparinnar. Það, sem fremr öllu öðru dregr úr árangri kristniboðsins í heiminum á vorri tíð, er það, að heiðingjarnir sjá svo langt um of lítið af heilögu lífi hjá almenningi innan kirkjunnar. Og ein aðal-orsök þess, að svo margir Íslendingar hér berast fyrir trúlausir utan safnaða vorra, er vissulega einnig sú, að þegar þeir líta inn í þá söfnuði, þá sjá þeir þar svo fáa kristindómsávexti í lífinu. Á þetta var hvað eftir annað skýrt bent á samtalsfundunum út af helganinni. Fjallrœða Jesú öll heyrir því máli beinlínis til, og var þá einnig á það minnzt, að í þeim mikla og dýrðlega boðskap gjörir Jesús grein fyrir því, hvað hann með tilliti til lífernisins heimtar af öllum, sem eigi að geta orðið hans lærisveinar, að hvaða líferniskröfum allir verði að ganga til þess að þeir fái komizt inn í guðs ríki. Trúarlærdómrinn kristilegi er þar ekki. Jesús opinberar hann smásaman eftir það. Og fyrir þá opinberan urðu lærisveinar hans móttœkilegir eftir því sem þeir betr og betr lifðu sig inn í siðalærdóms-boðskap fjallrœðunnar. Þannig var það þá. Og þannig er það enn. Trúin á leyndardóma fagnaðarboðskaparins um Jesúm Krist vex í sálum lærisveina hans að sama skapi sem þeir betr leggja stund á vandað, óeigingjarnt, hreint, heilagt líf. En hún visnar upp, sú

trú, ef lífið er öðruvísi, og verðr annaðhvort að dauðri trú, ellegar að reglulegri vantrú.

Minnt var á þessi orð Jesú í bœninni, sem hann bar fram fyrir föður sinn á himnum áðr en hann gekk út í friðþægingarpíslirnar: ,,Helga þú þá í þínum sannleika; þitt orð er sannleikr" (Jóh. 17, 17). Því að eins getr verið um helgan lífernisins að rœða, að menn noti kappsamlega guðs orð, sé fúsir að læra það, elski það, — lifi í guðs orði. Með þessum orðum Jesú eru þá allir lærisveinar hans hvattir til samvizkusamrar kirkjugöngu á fastákveðnum guðsþjónustu-tíðum, en einnig. og engu síðr, til þess að hafa guðs orð iðulega um hönd í heimahúsum. ,,Látið Krists orð ríkulega búa hjá yðr"— segir postulinn (Kól. 3, 16).

Leggi allt vort safnaðarfólk framvegis áherzlu á þetta mikla atriði í hinum kristilegu barnafrœðum sínum — helganina.

---

## Vestr að Kyrrahafi.

Eftir séra Björn B. Jónsson.

---

### I.

,,Go west, young man!"—Horace Greeley.

Í þessa ferð lagði eg á stað heiman frá mér í Minneota 3. September síðastl. Fór eg fyrst til St. Paul og dvaldi þar sólarhring. Þaðan lagði eg aftr upp að kvöldi dags og tók mér far með *Northern Pacific* járnbrautinni. Enga járnbraut þekki eg, sem eg heldr kysi að ferðast með en þeirri braut. Hún er ekkert smáræði, Kyrrahafs-lestin, sem daglega leggr á stað vestr frá ,,Tvíbura-borgunum". Hún er eins og bezta hótel á hjólum. Þar eru svefnhús, borðsalir og lestrarsalir og hvað annað, sem aukið getr lífsþægindin, hafi maðr að eins ,,afl þeirra hluta, sem gjöra skal", í vösum sínum.

Eg segi ekkert af ferð minni fyrr en eg eftir þrjú dœgr frá því eg fór frá St. Paul kom til bœjarins Livingstone í Montana. Þar nam eg staðar, því þar sextíu mílur í suðrátt er undralandið mikla, *Yellowstone National Park*. Þangað var nú fyrst ferðinni heitið. Hafði mig lengi langað að

koma á þennan stað, sem vafalaust er bæði fegrsti og undarlegasti staðrinn í öllum Vestrheimi. Og þegar eg fyrst fór að hugsa til þessarar vestrferðar, tók eg undir eins að ráðgjöra að fara þennan krók. En lengi var eg á báðum áttum um það, hvort eg ætti að láta það eftir mér eða ekki, því 50 doll. kostar það að fara um Yellowstone Park, auk ýmsra smáútgjalda þar að lútandi. Þessa peningaupphæð borgar maðr fyrirfram og fær í staðinn flutning um ,,parkinn", fylgdarmenn og gisting á hótelunum í sex daga. Líklega hefði eg aldrei lagt í þennan kostnað, ef eg hefði ekki komizt að því, að prestum er veittr helmings afsláttr af þessu venjulega verði. Eg réð því af að nota mér þessi ,,kennimannlegu réttindi" og fara til undralandsins, og sannarlega sé eg mig ekki eftir því.

Eftir tveggja stunda bið í Livingstone fór eg þaðan með aukalest einni tilheyrandi *Northern Pacific* félaginu suðr til smábœjar þess, er Cinnabar heitir og er rétt á landamærum Montana og Wyoming ríkjanna. Vegalengd þessi er 52 mílur, og verðr svo ekki lengra komizt á járnbraut; en eftir eru enn nokkrar mílur til Yellowstone Park. Járnbrautarstúfr þessi liggr eftir þröngum dal inn í fjöllin, og þótti mér mikilfenglegt að sjá þau nú í fyrsta sinni. Þetta var árla dags og grúfði þoka yfir fjöllunum. En sumsstaðar gnæfðu fjallahnúkarnir upp úr þokunni og teygðu sig upp í skýin, og sýndist mér eins og stórar skýja-flyksur hanga hingað og þangað utan í hnúkunum. Með lestinni voru engir farþegar aðrir en ferðafólk, sem ætlaði til Yellowstone Park. Það var úr öllum áttum, ekki svo fátt sunnan úr suðrríkjunum og margt frá New York, Boston og Philadelphia, og jafnvel nokkrir frá öðrum löndum. Alls var fólkið 73 talsins, og héldum við að mestu hópinn þessa sex sólarhringa, sem verið var í ,,parkinum". Allt var það menntað og skemmtilegt fólk. Mér var bæði ánœgja og uppbygging af að kynnast því. Hver sagði þar öðrum frá sínu landi eða héraði og frá ferðum sínum. Höfðu margir þessara manna farið víða og kunnu frá mörgu að segja, svo að maðr varð um margt fróðari eftir en áðr. Þegar til Cinnabar kom, biðu þar margir ferðavagnar, sem sendir höfðu

verið úr ,,parkinum" til að flytja okkr þangað. það eru bæði skrautlegir og þægilegir vagnar, og ganga fjórir hestar fyrir hinum smærri, en sex hestar fyrir hinum stœrri. Í smærri vögnunum aka átta manns saman, en í hinum tólf. Tafarlaust var lagt á stað frá Cinnabar og ekið átta mílur. þá er maðr kominn á fyrsta áfangastaðinn í ,,parkinum"—Mammoth Hot Springs. þar er hótel, og snæddum við þar dögurð.

Eg veit, að mörgum er forvitni á að heyra eitthvað um Yellowstone Park; og vildi eg feginn geta lýst því landi, en það er helzt ómögulegt að lýsa því, allra sízt í stuttu máli. Eg skal að eins minnast á örfátt af ótal-mörgu, sem segja mætti um þetta undraland.

Yellowstone Park liggr í norðvestrhorninu á ríkinu Wyoming að mestu, en yztu jaðrar þesss ná þó bæði inn í Montana og Idaho. Vegalengd þangað frá St. Paul er rétt um 1,000 mílur. Landspilda þessi er 62 mílur á lengd frá norðri til suðrs og 54 mílur á breidd frá austri til vestrs. það nær yfir 3,412 ferhyrningsmílur. Með sérstakri löggjöf kongressins 1872 var land þetta um aldr og æfi gjört að ríkiseign, og er það algjörlega undir stjórn þingsins, sem árlega leggr fram mikla peninga-upphæð til vegagjörðar og hirðingar á því. Allt árið um kring eru þar flokkar hermanna, sem líta eftir að ekkert sé þar skemmt, né skotin dýrin þar. Að eins fjóra sumarmánuðina er ,,parkinn" opinn fyrir ferðafólk.

Ferðin um Yellowstone Park tekr sex daga, ef farið er eftir hinni venjulegu ferðaáætlan. Vilji maðr haga ferðum sínum öðruvísi og vera lengr, borgar maðr átta dollara fyrir hvern dag, sem um fram er. En þessir sex dagar nœgja til að sjá allt hið helzta, ef maðr notar vel tímann. Alls ekr maðr í ,,parkinum" 152 mílur. Vegrinn, sem stjórnin hefir látið gjöra þar, er sannkallað stórvirki. Hann liggr æ hærra eftir því, sem sunnar dregr, þar til komið er um 10,000 fet yfir sjávarmál. Sumsstaðar er vegrinn höggvinn inn í kletta og ekið eftir fárra feta breiðum stöllum; er þá stundum annars vegar himinhátt hamraberg, en hins vegar hyldýpis gjá. En þó sumum þyki stundum nóg um, er þetta þó engin sérleg glæfraför, og ökumaðrinn stýrir hestunum af mikilli list.

þótt svona sé hátt farið og öldótt þar uppi, er þó Yellowstone Park eiginlega dalverpi upp í fjöllunum. Og öll náttúru-umbrotin þar held eg sé að eins dauðateygjur ógurlegs eldgígs, sem þar hefir á umliðnum öldum verið með miklu meira og hrikalegra lífi en nú er. Enda þykjast menn hafa veitt því eftirtekt, að allt af sé að draga af kröftum umbrotanna. Tvær ,,höfuðskepnur", eldr og vatn, eru valdar að flestu bæði því fagra og hrikalega, sem hér gefr að líta. Eldrinn, hitinn í jörðinni, er voldugastr herra í ríki þessu. Einkum ber á því við fyrsta áfangastaðinn, Mammoth Hot Springs (Heitu laugarnar stóru). Þar eru klettarnir og jarðkúpan full af kalki og brennisteini. Hefir þar augsýnilega lengi logað eldr, en við það að kólna og storkna hefir svo jarðlagið fengið á sig ótal einkennilegar kynjamyndir. Enn þá rýkr á þessum stöðvum víða upp úr jörðunni og víða er hin megnasta brennisteinssvæla. Af því stafar það þá einnig, að flest örnefni um þær slóðir eru kennd við djöfulinn. Var okkr líka af fylgdarmanni okkar sögð mjög kýmileg saga um það, hvernig djöfullinn hefði hafzt þar við, áðr en hann flutti sig til Chicago! Af híbýlum hins forna óvinar þarna á brennisteins-svæðinu nefni eg ekkert nema eldhúsið hans—,,The Devil's Kitchen". Því nafni heitir hellir einn niðri í jörðinni. Er farið þangað niðr í stiga 30 fet gegn um ofr-litla rifu, sem er á jarðarskorpunni. Að neðan er hellirinn miklu víðari um sig og afarlangr. Þar niðri er áköf hita- og brennisteins-svæla, og flýta því flestir sér upp aftr.

Margt er það í útsýninu, sem lengi verðr minnisstœtt þeim, sem um Yellowstone Park aka. Margir eru þar tignarlegir fjallahnúkar, svo sem eins og ,,Electric Peak"—hann á að vera þrunginn af rafmagni—, og glerhóllinn ,,Obsidian Cliff". Þá er heldr ekki sízt að sjá klettabrúna ,,The Natural Bridge", sem liggr milli tveggja kletta yfir djúpa gjá; og til að sjá skyldi enginn öðru trúa en að hún væri gjörð af manna höndum. Tvisvar liggr leiðin gegn um skínandi falleg ,,hlið"—svo eru nefnd opin, þar sem vegrinn hefir verið sprengdr gegn um björg. Annað hliðið heitir ,,Silfr-hlið", en hitt ,,Gull-hlið", og draga þau nöfn sín af litunum á berg-

inu, sem á öðrum staðnum er silfrgrátt, en á hinum sem gull að lit. En ekki get eg látið mér til hugar koma að lýsa útsýninu hér í þessu stutta máli. Eg segi hér ekkert um ána, Yellowstone River, svo fögr sem hún er; ekkert um lœkina, sem hvervetna buna eftir giljunum, og ekkert um silunginn í ánni og lœkjunum; stöðuvatninu fagra þarna upp í fjöllunum, Yellowstone Lake, og gufuskipsferðinni eftir því sleppi eg. Ekki heldr minnist eg neitt á dýrin í Yellowstone Park; minnist jafnvel ekki á nafna mína, birnina, sem voru svo gæfir og góðlyndir og stóðu kyrrir fáa faðma frá okkr meðan við vorum að taka myndir af þeim.

En ómögulegt er að minnast svo á Yellowstone Park, að maðr ekki geti um heitu laugarnar, hverana og *geysana*. Í þessum undraheimi, Yellowstone Park, eru yfir 4,000 sjóðandi hverar og 100 geysar. Heil svæði eru þar, þar sem allt vellr og sýðr. Sumsstaðar eru feikna-stórar skálar, þar sem aur og leðja vella og sjóða. Eru slíkir staðir kallaðir ,,Mud Pools" (leirhverar). Í klettaskálum sér maðr víða kalkkennda leðju með ýmsum litum vella og sjóða. Þær skálar eru kallaðar ,,Paint Pots". En lang-merkilegast er sjálft hið heita, tæra vatn. Hvervetna verða á vegi manns ýmist smáar eða feikna-stórar skálar úr allskonar og marglitum málmtegundum, fullar af tærasta vatni sjóðanda heitu. Eg hefi aldrei séð litadýrð fyrr en eg sá þessa vatnspolla. Sumar þessar ,,skálar" virtust saman settar úr óteljandi smáögnum; hver smáögn með sínum sérstaka lit. Vatnið var tært eins og tár og svo heitt, að lá við suðu, og var því ávallt eins og titringr á því, en titringrinn virtist ekki vera á vatninu sjálfu, heldr sýndust allar hinar marglitu agnir í börmum og botni skálarinnar iða, og var því á að horfa eins og verið væri að hrista óteljandi demanta fast við augu manns. Þegar svo sólin glampaði á þessa gimsteina-spegla, þá varð litfegrðin svo dásamleg og dýrðleg, að henni verðr við ekkert líkt. Regnboga-litirnir eru ónógir til samanburðar. Enginn málari hefir blandað svo litum; að eins guð og náttúran geta málað svona. —Sumsstaðar sér maðr eins og ,,skálar" þessar á hvolfi og brotið gat á botninn. Vatnið vellr og sýðr undir skálunum

og spýtist við og við upp um gatið; því stœrri sem skálarnar eru, því hærra spýtist upp úr. Þetta er þá kallað ,,Baby Geysers'' (Geysa-ungar), og minnir þetta mig á það, sem mörgum þykir tilkomumest í Yellowstone Park, geysana.

Hvergi í heimi eru eins margir geysar saman komnir eins og í Yellowstone Park, og hvergi eru þeir eins stórir eins og þeir stœrstu þar. Þeir eru oftast margir á sama stað, en svo langt bil á milli byggða þeirra. Auðvitað gjósa þeir ekki allir í einu og enginn einn maðr getr séð þá alla. Margir geysanna gjósa með reglubundnu millibili, og getr maðr því setið um þá. ,,Excelsior'' heitir stœrsti geysirinn í Yellowstone Park og er hann sagðr stœrstr í heimi. En því miðr lætr hann ekkert á sér bera á síðari árum; hefir ekki gosið svo menn viti síðan 1881. Næstir að stœrð eru þeir ,,Giant'', ,,Giantess'', ,,Beehive'' og ,,Old Faithful''. Þeir eru allir sífellt á ferðinni. ,,Giant'' spýr vatninu 250 fet upp í loftið, ,,Beehive'' 200 fet, og hinir tveir, sem nefndir voru, nálega eins hátt. Öllum þykir víst vænzt um ,,Old Faithful'', því hann ber nafn með rentu og bregzt manni aldrei. Hann gýs nákvæmlega einu sinni á hverri klukkustund. Fyrst heyrast dunur og dynkir niðri í skálinni, þegar hann er að taka sig til; svo fara smámsaman að koma stórar hvítfyssandi gusur af sjóðanda vatni upp úr skálaropinu, og svo allt í einu gýs hann í háa loft, þráðbeint upp í loftið nærri 200 fet. Svona stendr úr honum strokan 5—6 mínútur í einu. Hálfri annarri milíón gallóna af vatni spýr hann í hvert sinn. Smámsaman fer ofsinn í honum að sefast og hann missir mátt sinn, sígur hœgt og hœgt og hverfr ofan í skálina, og er þá borð á henni á eftir. Fjórum sinnum sá eg ,,Old Faithful'' leika leik sinn, og þótti mér ávallt tilkomumeira í hvert sinn. Marga fleiri geysa sá eg í algleymingi, en sleppi að lýsa þeim.

Að eins einu undri enn skal eg reyna að lýsa. Það er hin mikla gjá—,,The Grand Canyon''. Hún er eitthvað 20 mílna löng, og er varið nærri heilum degi til að skoða hana. Er það þó aðallega um svo sem fjögra mílna svæði, að farið er. Þar sem hún er mest er hún hér um bil 1,200 feta djúp, undr mjó að neðan, og rennr þar Yellowstone-áin og sýnist svo lítil

spræna. Gjáin víkkar allt af eftir því, sem ofar kemr, og er fjarska breitt milli gjárbarmanna. Veggirnir eru að sjá sem væri þeir úr kristalli og eru með allskonar lagi og litum og gljá og glitra í sólskininu. Maðr gengr fram á klettasnös í gjárbarminum og horfir upp og ofan gjána svo langt sem augað eygir, og þá er eins og blasi við manni allsstaðar í gjárhlíðunum óteljandi hallir með turnum og portum og kastalar úr gimsteinum og gulli. Tveir voldugir fossar eru í ánni með nokkru millibili þarna í gjánni; er annar hærri en hinn, og þegar horft er eftir gjánni, ber þá hvorn í annan. Neðri fossinn fellr á fimmta hundrað fet, og er það hin dýrðlegasta sjón í sjálfu sér, en þó miklu meiri sökum litadýrðar gjárinnar, sem blandast saman við dýrð fossins.

Ein klettasnösin, sem skagar fram í gjárbarminum og maðr stendr á til að horfa eftir gjánni, heitir ,,Inspiration Point" (Innblástrs-oddi). Það ætti einnig að vera réttnefni, því engin sjón getr hugsazt meir ,,inspirerandi" en þessi voldugа, tignarlega, dýrðlega mynd. Eg hefi séð skráðar hugsanir skálda og spekinga, sem í hug þeirra hafa komið, er þeir stóðu á ,,Inspiration Point", og nú furða eg mig eigi svo mjög á þeim hugsunum, eftir að hafa sjálfr séð þar dýrðina. Frá þessum stað ritaði mælskumaðrinn John L. Stoddard meðal annars þetta: ,,Í dag sá eg gjána miklu í Yellowstone og hennar margbreytilegu og óviðjafnanlegu litadýrð. Eg skoðaði kastala hennar og dómkirkjuturna, sem hönd guðs hefir út höggvið, og eg hlustaði á nið hins volduga foss — og mér fannst, að hér hlyti allt *takmarkað* að tilbiðja, hinn *ótakmarkaði* að bœnheyra, og öll *alvíddin* hlusta á". — Stórskáldið enska, Rudyard Kipling, kemst svo að orði um gjána: ,,Eftir veggjum gjárinnar var að sjá sem öldugang óteljandi lita — fagrrauðra, stálgrárra, mjallhvítra, himinblárra og allra annarra lita. Sólskinið tók við þessum litum og bœtti nýjum litum við. — Einu sinni hefi eg séð morgunroðann breiða sig um stöðuvatn í Rajputana og í öðru sinni sólsetrið á Ordney Sagar; en í þetta sinn sá eg bæði undrin í einu. Gjáin logaði eins og Trójuborg, og sá logi slokknar aldrei, og guði sé lof fyrir það, að hvorki penni né bursti geta málað þessa dýrð

fullkomlega. Kvöldið kom og læddist gegn um furuskóginn í kringum oss. Eg gekk hœgt og varlega út á klöpp — hún var ýmist blóðrauð eða ljósrauð —, og horfði niðr í dýpsta dýpið. Og nú veit eg, hvað það er að sitja krýndr uppi í dýrð sólsetrsins''. —Lang-frumlegust er þó hugsanin hjá gamla dr. Talmage, er honum datt í hug, þegar hann horfði yfir gjána. Hann segir: ,,Hvílíkr salr þetta væri til að halda í hinn síðasta allsherjar dóm! Sjáið þennan hamramma foss og regnbogana við fœtr hans! þegar þetta volduga vatnsfall svo stöðvaðist og storknaði í umbrotum hins mikla dags, hvílíkr staðr væri það þá fyrir hinar skínandi fœtr dómara lifenda og dauðra að standa á, og kasta svo regnbogunum eins og kórónum að fótum hans! Á botni þessarar stóru gjár er pallr, sem allar þjóðir heimsins gæti staðið á, en herskarar himinsins gæti setið á hinum ótal-mörgu veggloftum hringinn í kring í gjánni! Og hversu básúna höfuðengilsins myndi bergmála um öll þessi skörð, hella og hæðir! Hví skyldi ekki dagrinn mesti, sem heimrinn nokkurn tíma sér, útlíða í hinu stórkostlegasta útsýni, sem almættið hefir skapað?''

Engar samanhangandi hugsanir á eg sjálfr frá því eg stóð þarna á ,,Inspiration Point''. Eg sat þar lengi aleinn — og í rauninni þarf maðr að vera aleinn til þess að geta fullkomlega notið slíkrar stundar. Eg man það eitt, að heilög lotning var í hjarta mínu og eg kenndi ómótstœðilegrar löngunar til að biðja guð. Mér fannst hann þá vera svo nærri mér. Eg man það líka, að eg hafði upp orð Jónasar Hallgrímssonar:

,,Drottins hönd þeim vörnum veldr.
Vittu, barn, sú hönd er sterk.
Gat ei nema guð og eldr
gjört svo dýrðlegt furðuverk.''

Eg þori nú ekki að taka upp meira rúm til að lýsa Yellowstone Park. Óhætt held eg mér sé að fullyrða það, að enginn, sem þangað ferðast, sjái eftir því. Viðrgjörningr allr er hinn bezti á hótelunum í ,,parkinum''. Á kvöldin er þar skemmt með söng og hljóðfœraslætti, svo ekki þarf manni að leiðast þær stundirnar, sem maðr ekki er að skoða sig um. Ekkert get eg hugsað mér meir hressanda og lífganda fyrir

þreyttan huga manns en það, að vera einn vikutíma fráskilinn heiminum í einveru við dýrð náttúrunnar þarna upp í fjöllunum. Náttúran breiðir þar faðminn móti manni og þar er allt *náttúrlegt*. Þar er ekkert *húmbúg*, engin fölsk fegrð, engin svikadýrð, ekkert mannlegt prjál, enginn leikhúsa-hégómi, engar kalkaðar grafir. En þar er náttúran með sína viðkvæmu, saklausu blíðu, en líka með sína hrikadýrð. Og þar er hin eilífa almættishönd allsstaðar sýnileg. Því nær brjóstum náttúrunnar sem maðr er, því nær er hann hjarta guðs:

,,Guðs hjarta heyrist slá;
í hjarta mínu þá
býr fró og friðr.''

Hin ólgandi umbrot náttúrunnar í Yellowstone Park standa mér fyrir hugskotsaugum sem ímynd umbrotanna í hjarta mannsins. Hið sjóðanda vatn og hinn logandi eldr, er sprengja sundr sjálfa klettana, eru sem ástríðr mannshjartans, þegar það sýðr og logar. En hinn mikli friðr náttúrunnar í Yellowstone Park táknar fyrir mér hinn eilífa sálarfrið guðs barna.

Í Yellowstone Park getr enginn ratað án fylgdarmanns og ekki fundið dýrðina þar, nema einhver leiðbeini manni. Í lífinu getr heldr enginn maðr ratað án fylgdarmanns, enginn fundið veginn til eilífs lífs nema fyrir frelsara sinn Jesúm Krist. Og fegrðina í lífinu hér og dýrðina hinum megin finnr enginn nema sá, sem leiðist af guðs anda.

En að vér reynum nú að gjöra *lífið* að *Yellowstone Park*, —fagrt, hugsjónaríkt og — náttúrlegt.

---

## ,,Kennarinn“ með ,,Sameiningunni“.

Hr. G. B. Björnsson í Minneota, Minn., er hættr við að gefa ,,Kennarann“ út. Ekki er þó tilætlanin sú, að tímarit það skuli með því deyja eða hverfa úr sögunni. Með fullkomnu samþykki séra Björns B. Jónssonar, sem frá upphafi hefir verið ritstjóri ,,Kennarans“ og lagt við hann hina mestu rækt, er ráðstöfun til þess gjörð, að útgáfu þess blaðs verði

haldið áfram hér í Winnipeg í sambandi við ,,Sameininguna''. þau tvö blöð renna þó ekki saman í eitt, að minnsta kosti ekki fyrst um sinn, hvað sem seinna kann að verða. En þau verða send út sameiginlega og seld bæði í einu fyrir sama verð sem áðr hefir verið borgað fyrir ,,Sameininguna'' eina. Stœrð ,,Kennarans'' verðr þó hér eftir minni en áðr, —hvert nr. hálf örk eða 8 bls. Sökum fjarlægðar frá staðnum, þar sem ,,Kennarinn'' verðr út gefinn framvegis, treysti séra Björn sér ekki með neinu móti að hafa ritstjórn þess blaðs á hendi lengr. Í hans stað tekr séra N. Steingrímr þorláksson það verk að sér. ,,Kennaranum'' verðr hér eftir eins og áðr haldið úti í nafni kirkjufélags vors kristindómsfrœðslu barna og unglinga til stuðnings og sérstaklega verki því, sem verið er að vinna í sunnudagsskólunum. Sunnudagsskóla-lexíur verða því framvegis skýrðar þar. Og mun ritstjórinn gjöra sér far um að vanda þær skýringar sem bezt hann getr eftir föngum.

En sökum þess að ráðstöfun þessi, framtíð ,,Kennarans'' viðvíkjandi, varð ekki gjörð fyrr en svo seint—um mánuð þennan miðjan—, getr það blað nú ekki komið út fyrr en í Desember. En þá fylgir það væntanlega með ,,Sam.'' og kemr með lexíur fyrir sunnudagsskólana frá nýári. Séra Steingrímr býst við að fara þar eftir einni af lexíuröðum þeim, sem General Council-menn hafa útvalið í sunnudagsskóla-ritum sínum, og það einmitt þeirri lexíuröð, sem stöðugt hefir að undanförnu verið farið eftir af séra Birni í ,,Kennaranum''.

Vér vonum, að núverandi áskrifendr ,,Sameiningarinnar'' kunni að meta það, að hér eftir fá þeir ,,Kennarann'' algjörlega ókeypis, og sýni þá líka þakklæti sitt verklega með því að borga blað vort greiðlega, en einnig með því að útvega því nýja kaupendr. Vér vonum og, að þeir allir, sem að undanförnu hafa keypt og notað ,,Kennarann'', finni til þess, að þeir þurfa enn á hjálp hans að halda við sunnudagsskóla-kennsluna og aðra kristindómsfrœðslu barna, og gjörist svo kaupendr ,,Sam.'', þótt ekki hafi þeir verið það áðr. Allir slíkir snúi sér í því efni til hr. Ólafs S. þorgeirssonar (P. O. Box 689, Winnipeg, Man., Canada), sem er einn í útgáfunefnd blaðs vors og féhirðir þess.

Séra Björn B. Jónsson er eins og menn vita einn af þeim mönnum, sem í kirkjufélagsins nafni annast um útgáfu ,,Sameiningarinnar". En einnig á annan hátt er hann náknýttr við blað vort. Hann hefir í seinni tíð ritað mikið fyrir ,,Sam.", margar ágætar greinir um eitt hinna merkilegustu og þýðingarmestu ágreiningsmála, sem nú eru uppi í kristninni, — málið um biblíu-kritíkina. Fyrir það erum vér honum hjartanlega þakklátir og væntanlega allr þorri lesenda vorra. Hann ætlar ekki að hætta að styðja blaðið á þann hátt. Það geta allir séð á því, að nú einmitt í þessu nr. i ,,Sam." kemr frá honum löng og góð grein, fyrri hluti ritgjörðar út af ferð þeirri, er hann fyrir skemmstu fór í missíónar-erindum vestr að Kyrrahafi. Þessi þáttr ritgjörðar hans, sem nú birtist — um náttúru-undrin óviðjafnanlegu í Yellowstone Park, verðr víst almennt lesinn af fólki með mestu ánœgju. Það að séra Björn þvert á móti tilætlan vorri losnaði við ritstjórn ,,Kennarans" verðr að því leyti til góðs, að hann fær nú meiri tíma en áðr til þess að rita fyrir ,,Sam."

Vér tökum þetta fram að nokkru leyti fyrir þá sök, að vér höfum komizt að því, að sumir góðir safnaðarmenn innan kirkjufélagsins hafa lent í þeim misskilningi, að ráðstöfun sú, sem gjörð hefir verið fyrir útgáfu ,,Kennarans" framvegis, sé að óvilja séra Björns. En af þeim misskilningi hefir það leitt, að stöku áskrifendr ,,Sam.", sem nú eru, hafa haft um orð að segja því blaði upp, að líkindum gangandi að því sem vísu, að ,,Kennarinn" ætti að deyja og að ,,Sam." væri völd að dauða hans. Nei—,,Kennarinn" á ekki að deyja. En þessi misskilningr út af fyrirhuguðum vistaskiftum hans þarf endilega að deyja út, og fyrir skýringar þær á málinu, sem nú eru lagðar fram fyrir lesendr vora, á sá misskilningr að geta dáið út, og mun engum þykja vænna um að sú verði reyndin en einmitt séra Birni.

* * *

Áframhaldið af sunnudagssskóla-lexíum þeim, sem ,,Kennarinn" að undanförnu hefir haft meðferðis, er þetta fram að nýári:

1. sd. í aðventu: Esaj. 61, 1—4, 6—8, 10—11 — með fyrirsögninni: „Nýr konungr í vondri veröld".

2. sd. í aðv.: Matt. 11, 16—24, 27 — „Konungrinn, sem menn útskúfuðu, verðr að síðustu dómari vor".

3. sd. í aðv.: Matt. 3, 1—12 — „Sendiboði konungsins kemr".

4. sd. í aðv.: Matt. 14, 1—12 — „Sendiboði konungsins frammi fyrir þessa heims konungi".

Sunnud. milli jóla og nýárs: Matt. 13, 55—58; 12, 46—50 — „Jarðneskir ættmenn konungsins".

Lexíurnar allar á ársfjórðungi þeim, er hefst með aðventu, hafa þann boðskap inni að halda, er sérstaklega bendir á frelsara vorn Jesúm sem konung — konung ríkis þess, sem ekki er af þessum heimi.



Vídalínssöfnuðr, Hallson-söfn. og Pétrssöfn. í Pembina Co., N.-Dak., kölluðu í vor sem leið séra *Hans B. Thorgrímsen* til prestsþjónustu hjá sér frá Milwaukee, Wis., þar sem hann í seinni tíð hefir verið prestr norsk-lútersks safnaðar. Hann tók þeirri köllun og er nú fyrir skemmstu kominn til þeirra safnaða. Allir, sem honum eru kunnugir frá fyrri tíð, þá er hann var prestr að Mountain og kirkjufélag vort var að myndast, segja hann víst hjartanlega velkominn aftr á fornar stöðvar. Í nafni kirkjufélagsins íslenzka brá séra N. Steingrímr Þorláksson sér suðr í prestakall hans hið nýja og heilsaði upp á hann nýkominn við opinbera guðsþjónustu í kirkju Vídalínssafnaðar sunnudaginn 10. þ. m. Drottinn blessi verk hans vor á meðal í framtíðinni!

---

Hr *Ólafr S. Þorgeirsson*, 644 William Ave., Winnipeg, er féhirðir „Sam."

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada. — Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstjóri), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, Björn B Jónsson og N. Steingrímr Þorláksson.